# Guds Lofgjørd

## af eins barns munni,

## uppskrifud af þess Sóknarpresti,

## en

## útløgd úr svensku af útgéfaranum.

---

Vid byrjun ársins 1764 kom til skólans í Jockmock ein 13 ára gømul stúlka ad nafni Elsa Larsdóttir, lapplendsk ad ætt. Einu ári ádur hafdi sú eldri systir hennar farid, med hrósi, frá þessum skóla, heim aptur til sín.

Þegar þessi Elsa heyrdi systir sína heima vera ad syngja sálma og lesa á bók, sékk hún inniliga langgnm eptir ad meiga, ef Gud vildi, ogsvo komast í skólann, til þess ad ávinna sømu þeckíngu og jafna upplýsíngu í christindóminum, sem hún. Og jafnvel þó hún, nær í skólann kom, liti mikid óhraustliga út, vilda eg þó ecki (skrifar presturinn), veigra mér vid ad veita henni vidtøku. Hún var eitt mikid kyrlátt, sidsamt og velþeinkjandi barn; mikid lagkjæn og lipur til allra þeirra handatiltekta, sem hún vanist hafdi, og ótrúliga kostgjæfin vid bókina, hvørja hún

naumast gat frá sér lagt. Hafdi þar hjá gódann skilníng og næmi.

Þegar hún í skólann kom, kunni hún allareidu stafrofs-kverid og hálf Lúthers frædi, sem systir hennar hafdi kennt henni. En í Junii mánadar byrjun var hún ei alleinasta búin med frædin og Högströms christindóms-spurníngar á lappiskn, sem hún kunni utanbókar, heldur kunni þar ad auki þriá höfudpartana af Svebelii spurníngum; þar fyrir utan gat hún súngid þá kunnugustu sálma á lappleudsku sálmabókina. Nær hún til skólans kom, var hún allareidu sjúklig, og, eptir mínum þánka, þvíngud af lúngnaveiki, sem alltíd í voxt fór, svo hún var ad mestu sængurliggjandi, jafnvel þó hún sæti uppi nockra tíma á hvorjum deigi. Þverran krapta hennar gaf ljósliga til kynna, ad daudinn nálgadist hana ódum, sem eg ecki heldur sparadi, svo inniliga, sem eg gat, ad setja henni fyrir sjónir. Samt var hún glød og ánægd, en óskadi þó opt ad hún feingi ad deya sem eitt gudsbarn og frelsast frá eilífri fortøpun. Hennar andagt og kostgjæfni í bæninni vóx stund eptir stundu. Svo mikid sem hún gat, las hún í bókum, og nær helst sem eg komst til, sat eg hjá sæng hennar, til ad tala vid hana.

Einn sunnudag þá folkid kom frá kyrkjunni, beiddist hún ad fá ad vita, um hvad predikunin høndlad hefdi. Þegar menn høfdu sagt henni þad sem þeir mundu, vard talad um kvøldmál:

kvar sakramentid, sem um daginn hafdi haldid verid, og ad á medal kvøldmálsgjestanna hefdi verid ein stúlka 13 ára gømul, sem þá í fyrsta sinn feingid hafdi ad vera vid þessa dýrmætu mál- tíd. Þegar hún heyrdi þad, lagdi hún saman hendur sínar, leit til himins og sagdi: «Gud láti þig hafa verduga verid, þá ertu sæl og lukkulig.» Hvør ord hún strekadi tvisvar edur þrisvar sinnum. Sídan lág hún allann daginn rólig, sat þó uppi eina stund í milli, og skémtan hennar var þar í falinn, ad hún las nýa testamentid í biblí- unni, og hafdi yfir fimta høfudpartinn í Lúthers og Svebelii spurníngum um kvøldmáltídina. En einkum (éll hún í einslags athugasemi, svo opt hún las innsetníngar-ordin. Hún lagdi bókina frá sér, spennti greipar og sagdi: «Jesús seigir: etid og dreckid hér af allir! svo fáum vér þá allir leifi þar til. Þad er Jesú hold, þad er Jesú blód, sem vér fáum ad eta og drecka til synd- anna fyrirgéfníngar — og hans endurminníngar.» Undir eins blies hún þúngann og sagdi med hárri raustu: «æ ad eg fengi ad gánga til Guds bords! Eg vil eta Jesú høld, eg vil drecka hans blód! eg vil vera í Gudi, eg vil vera eitt med Gudi! þad er útgéfid til syndanna fyrirgéfníngar. Eg þarf syndanna fyrirgéfníngar vid og styrks fyrir mína trú. Vér eigum ad eta og drecka til hans endurminníngar. Eg vil ad mín sála skuli minn- ast hans dauda og testamentis. O eina sáluhjálp-

liga endurminníngu!» Þegar eg merkti ad laungun hennar eptir kvøldmáltídinni var ysrid stór, svo hiet eg ad hún sá skyldi ósk sína, ad gánga til Guds bords, sem þó, eptir hennar beidni, og beggja ockar samþycki, skyldi dragast, til næstadags. Um kvøldid bad hún um ljós, og um nóttina las hún bædi Lúthers og Svebelii útskýríngar yfir fimta part frædanna, og Hogstroms rædu á pálma-sunnudag, í sinni útgéfnu lappalendsku postillu.

Um dagmálabil um morguninn lét hún bidja mig, ad þessi heil. athøfn mætti framfara í mínu húsi. Jafnvel þó eg, af ótta fyrir því, ad hún ei gjæti svo leingi á fótum verid, hefdi heist viljad ad hún kyr hefdi leigid í rúmi sínu, féck eg þó ecki af mér, ad synja henni óskar sinnar.

Nær allt var nú tilbúid, kom hún klædd inn í húsid, og hinønnur skólabørnin fylgdu henni. Þar var og nálægt ei alleinasta allt stadar-fólkid, heldur einnig nágrannarnir, sem bjuggu nærri kyrkjunni. Sídan var stúlkan leidd fram, og svo féll hún á kné, á einu hægindi, fyrir einum stóli. Hun leit út sem nockud ángurblítt og efásøm, og bad ad skriftamálin yrdu ei byrjud fyrri, enn hún feingid hefdi svar uppá nockrar spurníngar, sem hún bad sér leifdist ad framsetja, hvørjar í hennar þaunkum uppkomid hefdu og ollad henni óróssemi. Þegar hún séck leifi þar til, sagdi hún fyrst: «eg er úng; eg er ecki komin til þess aldurs, edur

hefi fyllt þá áratølu, ad kvøldmáltídin mér leifast meigi, og eg óttast því, ad eg óverdug til hennar gánga muni?»

Eg svaradi hértil: Þad sem brestur uppá aldur þinn, uppfyllist af skynsemi og þroska sálar þinnar. Þig húngrar og þyrstir eptir réttlætinu, þessvegna er þad rétt, ad þú vid Guds bord fáir sadníngu og svølun. Drottinn kallar þig þar til sjálfur, ad þú fá mættir endurnæríngu og ró fyrir þína sálu. Í annann máta framsetti hún þetta efamál: «Eg kann ecki allar Svebilii spurníngar utanbókar, og þér viljid þó ad ønnur skólabørn skulu kunna þær, ádurenn þaug fái ad gánga til gudsbords; hvørnig kann eg þá ad vera verdug til þess?» Eg svaradi: ønnur børn hafa heilsu, og þad skadar þaug ecki, þó þaug þroskist meir enn þú, ádur þaug gánga til altaris. Þad er og hætt vid ad þaug gleymi því sídar, sem þaug lærdt hafa, ef þaug kunna þad ei því betur ádur. En þinn sjúkdómur leifir ei soddan undandrátt. Þín þecking er líka ánægjanlig, og þú hefur þá innvortis reynslu, sem lángt yfirstígur þeirra; svo ad eg med allri fullvissu, sem einn Guds sendibodi, þori ad uppljúka fyrir þér brúdkaupssalnum. Þá sagdi hún: «Eg var hrædd, ad þér, vegna sjúkdóms míns, og til ad ángra mig ecki, vildud ei hindra nýúngagyrni mína, og ad eg þessvegna kynni mér til ólucku og í ótíma ad koma fram, og verda sek vid hold og blód Drott-

ins.» Eg svaradi: eg vil þín vegna, í Guds aug-
liti standa í vedi fyrir, ef eg ecki byggi minn dóm,
um ástand sálar þinnar, á hans eigin ordi. En
því framar sem eg athuga ásigkomulag þitt, því
sterkari fullvissu gét eg géfid þér um, ad þú sért
einn verdugur og velkomin gjestur vid Guds bord.
Þridja spurníngin var þessi: «Eg trúi því ad
sönnu vel, ad Gud fyrirgéfi mér nú syndir mínar,
en eg er þó svo ofurveik til ad géta haldid þad,
sem eg lofa Gudi. Eda hvörnig er Guds fyrir-
géfníngu varid? Ef eg nú sídar fer einhvörju
sinni villt, tilreiknar hann mér þá þær syndir ad
nýu, sem hann nú fyrirgéfur, edur eru þær ad
öllu leiti kvittar géfnar? Eg er svo hrædd um,
ef eg lífi, ad eg falli aptur.» Eg svaradi: Guds
loford standur eilífliga stödugt. Hann fyrirgéfur
syndina svo, ad hann aldrei framar minnist henn-
ar; og hann tekur syndarana til nádar, nær þeir
umvenda sér. En med nýum syndum, kunnum
vér þó ad falla svo, ad vér eilífliga fortapadir
verdum, ef vér ei aptur uppstöndum. En vertu
ecki hrædd, fyrir þeim eptirkomanda tíma! nær
vér med alvöru sækjum eptir sáluhjálpinni; nær
ver erum sífeldt vareygdarsamir; nær ver rétt-
iliga brúkum nádarmedölin, þá verdum vér, fyrir
Guds krapt, vardveittir til sáluhjálpar. Drott-
inn megnar ad geyma vort andliga góts, sem

hann hefur oss á hendur falid; já ad geyma þad svo, ad helvítis-port ei verdi oss yfirsterkari, til ad ræna oss því. Þar á eptir mælti hún svoleidis: "Í Jesú nafni, látid þá Guds verk framgáng fá! En allir sem nálægir erud, bidjid Gud fyrir mér, ad eg géti nú verid eitt verdugt skriftabarn!"

Eptir þad hún medtekid hafdi kvöldmáltídina, var henni fylgt aptur í sæng sína, og svo lá hún allann daginn rólig og ánægd, svaf og svo vel nockurn part næturinnar. Morguninn þar eptir, undir eins og eg var á fætur kominn og hafdi haldid bænagjörd, géck eg til sængur hennar, og spurdi, hvörnig henni nú lidi? Hún tók þá ad gráta og sagdi: ad Gud hefdi minnt sig á eina synd, hvörri hún hefdi ádur gleymt og þagad yfir. Eg bad hana þá seigja mér frá henni svo sem hún væri, og þá sagdi hún: "fyrir nockrum árum sídan skipudu foreldrar mínir mér ad vakta hreyn-kýrnar úti í haganum. En þegar regn kom, setti eg mig nidur undir einu tré og sofnadi. Þegar eg þá kom aptur til hreinanna, vantadi 2, sem eptir fiögra daga leit fundust aptur, þær högdu hlaupid í burtu medan eg svaf, en eg sagdist hafa mist þær úti einn þraungvann skóg. Nú hefi eg med þessu fyrst logid, sídan

vanheidrað mína foreldra, þar eg ecki betur hyrdti um að gjøra það, sem þaug høfðu skipað mér. Eg orðsakaði þeim og svo með þessu mikla mœðu, þar eð leitað var í nockra daga. Eru nú þetta ecki þúngar syndir? og nú finn eg ecki framar foreldra mína, svo eg géti beðið þaug að fyrirgéfa mér, og þó er eg búinn að vera til Guðs borðs!" Eg svaraði: Drottinn hefur vissuliga fyrirgéfið þér þetta barnabrot. En mér þykir það þó mikið vel fara, að þér kom þessi synd í hug, og að þú viðurkéndir hana, og svoleiðis kanntu þá enn framar biðja þinn frelsara fyrirgéfníngar þar á. Því inniligar sem maður kémst í umgengni með Guði, því síður þolir hann nockurn synda fleck á sálu sinni. Hún tók þá í hønd mér og mælti: "þetta er að vísu huggunarsamligt, sem þér segið, en fyrir Guðs sakir verið ecki ofmildur við mig! Eg fel mig á yðar vald, sem eitt barn sínum sálusorgara og kénnifødur, með eptirlaungun að verða sáluhólpinn. Eg skal opinbera yður allt mitt hjarta. Eg vil einkis hlutar yður dylja. Eg vil gjarnan fylgja yðar ráðum. En verði eg ecki sáluhólpinn, þá áklaga eg yður fyrir Guði." Og í því bili hún sagði þetta, leit hún stíft á mig, og mælti: "gétið þér verið leingur hjá einni manneskju, sem er yður svo þúng? Eg svaraði: að eg aldrei gjæti verið

á mér kjærara stad, enn hjá einni sálu, sem svo hugsjúk væri um sína sáluhjálp. Eg bad hana þá, ad hún af öllu hjarta og med fullu trausti skyldi, sem ein brúdur, varpa sér í síns herra og frelsara fadm, og fyrir hans skuld bída eptir og bidja um sáluhjálpliga útför af þessum heimi.

Upp frá þessari stundu fann eg hana alltíd ánægda og glada; en eptirlángan hennar ad fá innanskams ad skiljast hér vid, vard mikid stór. Hún taladi um, ad Gud dragi þad svo ofurleingi undan, en undir eins bad hún ad Gud vildi fyrirgéfa sér þess sín óþolgjædis-ord. "Mig lángar," sagdi hún, "til at deja; þó ei fyrir þá skuld, ad eg þjáist af sjúkdóminum, því sjúkdómur minn er léttur og þolanligur, svo eg gét setid uppi og komid ofan, og eg finn valla til þess, ad eg sjúk sé. En mig lángar eptir ad sjá Gud og vera hjá þeim sáluhólpnu í himnaríki. Öll mín hrædsla er horfin, og eg vona ad verda sáluhólpin. Eg er sjúk í annara augum, en mér lídur þó miklu betur, heldur enn ádur, medan eg hafdi þá bestu heilsu, og vil aldeilis ecki skipta um ástand mitt nú, vid þann besta dag, sem eg lifad hefi í heiminum. Eg vil ogsvo ennú lifa nockud, ef Drottni svo þóknast, já gjarnan lifa því vesælasta lífi í manna augum, ad eins eg ecki missi þá gledi í

Gudi, sem eg nú smacka." Eg svaradi: Það gétur þó verið sálu þinni nytsamligra, medan þú í holdinu ert, at Drottinn dragi í hlje fyrir þér, um stundar sakir, þá sfakligu tilfinníngu nádar nálægdar sinnar. Þegar eg sagdi þetta, samanlagdi hún hendur sínar, apturlukti augunum og sagdi: «ó! Drottinn! víkir þú í burtu frá mér, þá gjør mig ad einu hlýdnu og þolinmódu barni! nær eg hefi þig, þá hyrdi eg ecki um, þó minn líkami og sála vanmegnist; en missi eg þig, þá missi eg allt, því þú ert mín hjálp, mín huggun og mitt hlutskipti." Morguninn þar eptir, nær eg kom ad sæng hennar, var hún hjartanliga glød og sagdi mér frá, ad sig hefdi um nóttina dreymt einn mikid yndisligann draum, þar hún hefdi þókst vera í einu hinu gledtligasta samkvæmi, hvar talad hefdi verid um Gud og Frelsarann, um hans nád og miskunsemi vid synduga menn, um hans stóru makt og dýrd, um himnaríki og sælufullt ástand þeirra útvøldu. Hún útmáladi þá, sem verid hefdu hjá sér í svefninum, og sagdi, ad þeir hefdu verid svo gladir, hreinir, vingjarnligir og kjærleiksfullir, ad hún efadist um, ad þvílíkir findust nockurstadar á jørdunni, sem væru eins og þeir, er hún sá í nefndu samkvæmi. Hún sagdi þá vid mig: "þér vorud ogsvo í hópnum med, héllbud í hønd mér og fylgdud mér

gødann spøl, en síðan urðuð þér eptir, en eg fór aftram með hópnum."

Eg gladdist yfir þessu með henni, og sagði að Frelsarinn léti hana með þessu móti gleyma sínum líkamans þjáningum, og gæfi sálu hennar með þessum asmálunum til kynna, að eitt betra og ánægjusamara líf væri, eptir þetta, fyrirbúið øllum guðhræddum, því sæla sú sé stærri, enn nockurt auga hafi sjeð, nockurt eyra heyrdt, edur í nockurs manns hjarta komið hafi. Hvað mig snertir, þá held eg svo gott sem í hønd þér, þar eg fylgi með, til að undirbúa þig til dauðans; en nær einglarnir leiða þig héðan í burtu, þá hlýt eg um nockurn tíma að vera hér kyr eptir.

Heila daginn lá hún allt af í stilli, glød og róleg, og fagnaði hjartanliga yfir því, nær børnin lásu Guðsorð hjá rúmi hennar, edur súngu nockra sálma, og hún saung æfinliga undir, svo mikið sem hún gat. Morguninn eptir, þegar eg kom til hennar, og spurði um hennar ástand, tók hún á móti mér brosandi, með miklið gladværu yfirbragði, og sagði undir eins: «Það er gott að liggja á banasænginni. Eg hefi ecki um alla mína lífdaga, meðan eg hafði heilsu í verøldunni, reyndt slíka ánægju, sem eg nú reyni; hvílík gledi má þá ecki vera í þeim eilífu dýrðarbústøðum og í umgengni með þeim sáluhjálpyu! Eg hefi þessa

nött haft samkvæmi med tveimur frídum og dæ=iligum jómfrúm. Þær lágu í rúminu hjá mér, ønnur á hægri en hin á vinstri hlid. Rúmid glansadi eins og silfur og gull og jómfrúrnar voru døgdligar. Þær høfdu med sér klædnad, og klæddu mig í hvít og føgur klædi. Vid fórum sídan allar á fætur til ad leika ockur, og þá heyrda eg nockra seigja: látum oss fagna og gledjast, því lambsins brúdkaup er komid, og þess brúdur hefur sig tilreidt! Ein ønnur raust hróp=adi: sælir eru þeir sem í lambsins brúdkaup kall=adir eru! En þetta hvarf allt, þegar eg vaknadi.» Eg svaradi þá: Gud gledur sitt kjæra barn á þess sóttarsæng, med þvílíkum føgrum draumum, og þá sagdi hún: þetta var einginn draumur, þad var meira enn draumur.» Hvør ord hún margsinnum ítrekadi upp aptur og aptur og stundi þúngann, rétt eins og henni mislíkadi, ad eg kall=adi þad einn draum. Þessvegna sagdi eg til hennar: þetta má vera hvad þad vera vill, en eg fagna mikilliga yfir, ad Drottinn med þessum fyrirmindum dregur þína gyrnd, líf þitt og allt þitt hjarta frá heiminum til þess eptirkomanda, og med þessu móti gjørist daudinn, sem mørgum er skéifiligur, þér svo kjær og velkominn, ad þú ecki neitt stakliga kénnir þíns líkama og dandans þjáníngа. Hún svaradi: «Eg er ecki mikid sjúk,

og eg líð ecki mikla líkamans pínu. En mín eptirlángan að koma til Guðs, er mikið stór. Eg gét sannliga ecki komið orðum þar að. Eg hefi ecki vogast að tala þarum, af ótta fyrir því, að eg feingi ávítur fyrir mína óþolinmæði, og fyrir það eg ecki væri Guðs vilja undirgéfinn. Eg hefi þó alltíð viðurkénnt þetta fyrir Guði, fyrir eina synd, á hvørri eg hefi beðið og ennú bið fyrirgéfníngar. Hvørn morgun, þá sólin rennur upp, þeinki eg: æ náðugi Guð! mun eg ecki snart fá að sjá eina aðra sólu, sem aldrei undirgeingur? en eg vil vera ánægð, og bíða þeirrar stundar. Mín hérvist gétur þó vissuliga ecki lángvinn orðið.» Hún bað mig síðan að bera sína hjartanliga kveðju foreldrum sínum, með þeirri áminníngu, að þaug ei skyldu syrgja sig; af því — sagði hún — að eg dey sem eitt guðsbarn, og fer nú út frá þessum vesæla heimi, inní Guðs eigin dýrð; þar óska eg að fá að sjá þaug; þar munum við þá eilífliga til samans gleðjast hjá vorum frelsara. Þar eptir sagði hún með hárri röddu: «þackið foreldrum mínum, mín vegna, fyrir allt það góða, sem þaug hafa mér sýndt; en einkum fyrir það, að þaug samsinnætu því, að eg feingi að fara í skólann; það var ein blessuð stund, þegar það skédi!» Síðan bað hún mig, að setja þeim fyrir sjónir, að þaug skyldu vel

nota sér náðarinnar tíma, og nefndi nockrar ysir-sjónir, sem hjá þeim útrðmast þyrftu, og síðan sagði hún: "minn nýa klæðnað, sem eg feingið hefi, þykir móður minni vænt um að sjá, og eg bið þvf, að hann skilist henni aptur.» Eg bað hana að vera ecki hugsjúka þarum, þín móðir skal gjarnan fá að behalda þeim, sagði eg, til síus kjæra barns endurminníngar. Allann þenn-ann dag var hún mikið máttvana, en þó inn-vortis rólig og ánægð. Eptir það búið var að halda bænagjörð um kvöldið, gjörði eg þá ráð-stöfun, að tvær úngar stúlkur og ein fullorðin skyldu vaka hjá henni um nóttina. En valla var eg geinginn í burtu frá henni, fyr enn hún bað fólkið að slöckva ljósið og fara að hátta. Hún sagðist ecki géta sjeð uppá það, að fólkið hefði svo mikla mæðu fyrir sér, að vaka yfir sér. En hún sagði þó þar hjá: «að ef einhvör vildi vera hjá sér í rúminu, þækti sér vænt um, en einginn-veiginn vildi hún láta vaka.» Þegar nú einginn tók undir þetta, brosti hún og sagði: «nú sje eg að þið þorið ecki að vera í rúminu hjá mér, af hræðslu fyrir því, að eg muni deya. En eg lifi þó víst af þessa nóttu; og þó eg dæi, svo vil eg að einginn skuli vera hræddur fyrir mér. Eg veit vel, að lifandi manneskjur eru hræddar við þá dauðu. Eg hefi verið það líka svo. En géti þeir

daudu verkad nockud medal þeirra lifendu, þá skyldi eg víst heldur gjøra ydkur gott enn illt. Eg vildi feigin vera í fylgd med þeim, sem út-sendir eru af Gudi, til þjenustu þeim, sem erfa skulu sáluhjálpina.»

Heilu nóttina lá hún svo eckert á henni bar. En um morguninn, þá fólkid fór á fætur, spurdi hún eptir hvørt eg væri vaknadur; vildi þó ecki láta vekja mig, fyrenn eg sjálfur vaknadi. Um midjan morgun kom kona mín ad sæng minni, og sagdi: ad sú sjúka hefdi spurt eptir mér. Eg reis snart úr reckju og geck til hennar. Þegar eg kom, sagdi hún: "Minn endurlausnari er nú ecki lángt í burtu." Eg spurdi hana þá, hvørt hún hefdi haft mikla verki þá nóttu, med því hún vissi ad daudinn væri svo nálægur? Hún svaradi: «Eg hefi ecki haft minstu ákénníngu af nockrum verkjum, því eg hefi sied sjálfann Drott-inn, med sína þyrnikórónu á høfdi, og hans dýrd var mikil. Eg stód fyrir hans stóli og griet fyrir hans fótum; en hann þurkadi af mér tárin, tók í hønd mér, upplauk einni bók, og sagdi: les þú! Eg las, og sá med gledi, ad mitt nafn var skrifad á lífsins bók.» Eg svaradi henni þá: þetta eru fagrir draumar, sem gjøra tímann svo ánægju-ríkann fyrir einum lídandi Jesú vin! Hún an-sadi: láti Drottinn ydur somu nád hlotnast, á

yðar bûnafæng, þá skuluð þér fá að reyna, að það er meira enn einn draumur. Eptir eitt stutt samtal um Guðs þolinmæði og gæðsku, um hans náð og miskun við syndarana, samt um hans elsku til sinna, vildi hún að morgunbæn haldast skyldi, sem og strags skéði. Undir bænagjørðinni reis hún upp og kraup á kné í sænginni. Þegar einhvør vildi nú hindra hana frá því og sagði: "liggðu kyr, því þú ert svo ofurveik!" svaraði hún: "æ lofið ogsvo mínum líkama að sýna nockra auðmýkt fyrir Guði, meðan hann megnar; þegar hann er í grøfina kominn, getur hann það aldeilis ecki."

Eptir bænagjørðina, þackaði hún øllum, sem fyrir henni høfðu nockra mæðu haft, og óskaði þeim Guðs blessunar þar fyrir. Til mín sagði hún: "Guð er svo góður við mig, at minn líkami getur ei leingur afborið svoddan sælu." Hún þackaði mér ysrið kjærleiksliga, og sagði: «Í himnaríki fáið þér þá mæðu launaða, sem þér fyrir Guðs skuld, hafið tekið uppá yður, mín vegna, eins vesælings Lappa-barns. Eg fer á undan yður til himnaríkis, og þrái með gleði, að sjá yður koma á eptir mér.» Hønd konu minnar þrickti hún að munni sér, og bað hana ei þreitast yfir mæðu þeirri, sem fyrir sér þyrfti ennú að hafa, þartil kroppur sinn legðist í jørðina.

Þar eptir kvaddi hún fólkid og sagdi: «verid nú sæl øll saman, sem her inni erud! Seigid øllum mønnum, og talid um vid þá, hvørsu ánægdur og sæll sá deyi, sem er til daudans vel undirbúinn, og sær ad deya í Drottni! Drottinn Jesús minn frelsari, láti ydkur øll sá ad deya, svo vel og ánægd, sem eg nú dey!" Nú beiddist hún, ad Gudi til lofs og dýrdar væri einn morgunsálmur súnginn. Þá var byrjadur á Lapplendsku sálmur þessi: «vakna mín sál, og veittu lof» og svo fr., hvør í því túngumáli er mikid hjartnæmur. Þegar sálmurinn var á enda, taladi hún ekkert framar, heldur lág mikid rólig, og sofnadi sídan sám mínutum þar eptir, med apturluktum augum og samanløgdum høndum.

Hvílíka verkun hennar daudans undirbúníngur og glediligi afgángur, frá þessu lísi, gjørdi hjá øllum þeim, sem þar uppá sáu, og mørgum ødrum, sem heyrdu um hana talad, kann eg ei med pennanum ad útmála.

Eg gét ekki tárabundist, svo opt sem eg hugsa þar til, og undireins verdur þessara orda meiníng sólskjær fyrir mínum augum: Sælir eru þeir sem í Drottni deya!

---

Kaupmannahøfn, 1817.
Prentad hjá Þorsteini E. Rangel.

# Prentvillur

## í No. 5 og 6.

| bls. | l. | |
|---|---|---|
| 3, | 6 | tannagnéstran les tannagnístran |
| — | 7 | sékt l. sikt |
| — | 17 | slikum l slíkum |
| — | 18 | samvisku l. samvitsku |
| 4, | 27 | dryck uskap les dryckjuskap |
| 6, | 14 | ridum l. ridum |
| — | 24 | þyrsto l. þyrsta |
| 8, | 7 | sumír l. sumir |
| 11, | 14 | hugleiddíngum l. hugleidíngum |
| 12, | 13 | farædi l fáfrædi |
| 13, | 18 | þúert l. þú ert |
| — | 25 | fyrir l. fyrir |
| 14, | 4 | syndinna l. syndinni |
| — | 18 | úttryna l. úttryma |
| 24, | 25 | rettlæti l. réttlæti |
| 32, | 15 | lísi l. lisi |
| — | 24 | ver l. vér |